# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, OKTÓBER 1899. Nr. 8.

## Sjálfsafneitun.

það var krapahríð úti og for mikil á strætunum í Chicago. Ég var á ferð, ásamt nokkrum öðrum stúdentum frá lúterska prestaskólanum þar í bænum, til Chicago-árinnar. Chicago-áin hefir orð fyrir að vera eitthvert óþverralegasta vatnsfall í heimi. það var líka óþverralegt að komast að henni. þegar við stigum ofan úr sporvagninum, urðum við að stikla yfir leirbleytuna hið bezta við gátum niður að bakkanum.

Til hvers vorum við að fara þangað?

A ánni, rétt fram undan okkur, lá einkennilegur bátur. það var lítil fegurð á honum að sjá, þar sem hann lá þarna við lendinguna. það hafði verið slegið upp yfirbyggingu á honum, sem auðsjáanlega var að eins ætluð til bráðabirgða. þetta var seglskip, en mastrið hafði verið tekið niður, og maður sá nú ekki fegurð þá, er það hafði þegar vindurinn fylti segl þess og það skreið yfir Atlantzhaf; því far þetta hafði komið alla leið frá þýzkalandi.

Við stúdentarnir vorum ekki hinir einu, sem voru að fara um borð í þetta einkennilega skip þennan dag. Nokkrir komu rétt um sama leyti og við, og þegar inn kom í þetta bráðabirgðarhús, sem sett hafði verið ofan á þilfarið, sáum

við að það var fult af fólki. Öðrum megin sátu bláfátækir aumingjar, sem höfðu komið þangað til að fá sér eitthvað að borða. Hinum megin var aðkomufólk af öllum stéttum, úr ýmsum pörtum Chicago-borgar. Fyrir endanum var matreizlu-ofn, þar sem verið var að búa miðdegisverð handa hinum hungruðu aumingjum, sem ekki áttu kost á að fá annarsstaðar saðningu.

En það var kona ein, sem við tókum mest eftir og sem við höfðum komið til að sjá og heyra. Hún var tígulega búin, og var dálítið undarlegt að sjá hana á þessum stað. Manni fanst einhvern veginn, að það mundi vera meira samræmi í því að sjá hana í höllum hinna ríku og voldugu, heldur en þar sem hún var. Samt var hún blíð og góð við alla. Hún var rétt nýbúin að halda ræðu þegar við komum inn, og var að taka á móti þeim sem vildu heilsa henni og tala við hana. En stundum talaði hún til fólksins í heild sinni, og stundum að eins til þurfamannanna, sem þangað voru komnir. Ég varð strax hrifinn af því, hvað hún hafði mikið vald yfir þessum mönnum, og hvað þeir sýndust virða hana og þeim vera innilega hlýtt til hennar.

Þeim mátti líka þykja vænt um hana. Af sínum eigin peningum algjörlega gaf hún þeim að borða. Hún var búin að vera að eins þennan vetur í Chicago; en hún var þá búin að gefa 50,000 máltíðir. Þar fyrir utan hafði hún reynt mikið til að vekja sanna trú hjá þessum mönnum og betra líferni þeirra.

Við stúdentarnir fengum þessa konu nokkru seinna til að koma upp á skólann til okkar, til að halda ræðu og segja okkur um starf sitt. Enginn okkar held ég hafi setið undir þeirri ræðu án þess að verða hrifinn. Forstöðumaður skólans stýrði samkomunni, þegar hún talaði, og þótti vænt um orð hennar ekki síður en okkur. Það voru ekki einungis orðin hennar, heldur hún, persónan sjálf, upptendruð af heilögum anda, sem hafði svo mikil áhrif á oss. Ég hlustaði á hana eins og rödd frá dögum postulanna.

En það er víst komið mál að vita, hver og hvaðan þessi kona er.

Hún nefnist greifafrú Adeline Schimmelmann.

Faðir hennar var auðugur danskur greifi, og hún fæddist í kastala einum í Schleswig-Holstein, sem þá tilheyrði Danmörku, en ólst upp að miklu leyti í Hamborg á þýzkalandi. Móðir hennar var þýzk.

þegar hún var ung stúlka varð hún hirðmey við keisarahirðina í Berlín. þar varð hún fljótt mikið uppáhald keisarans og keisara-frúarinnar. Hún hafði líka margt til að bera, sem gjörði hana skemtilega og aðlaðandi. Hún var gáfuð, vel mentuð, glaðlynd, siðprúð og brjóstgóð. þar að auki var hún forkunnar fögur og lagði mikla alúð við það að klæða sig sem fegurst. Friðrik keisari, faðir núverandi keisara þýzkalands, gjörði hana einu sinni kunnnga öðrum konungi, og sagði hana vera ,,hina yndislegustu ungfrú á þýzkalandi og þó lengra væri leitað''. Hún var ein með skrautbúnustu hirðmeyjum í nokkurri höll í Norðurálfunni.

þó var langt frá því, að hún væri gefin eingöngu fyrir glys og gjálífi heimsins. Hún var mjög vel að sér í kristnum fræðum, og þar að auki strang-lútersk. þegar keisara-frúin bauð henni að vera til altaris með sér—og það var stórkostlegt vináttumerki og álitinn mikill heiður—neitaði hún boðinu, af því það var í kirkju þar sem bæði lúterskir og reformeraðir höfðu guðsþjónustur sameiginlega. Hún vildi ekki undir neinum kringumstæðum ganga til altaris þar sem ekki var kent rétt um sakramentið eftir lútersku trúarjátningunum. Svona var hún trú því, sem henni hafði verið kent, og svona hélt hún vel fram því, sem hún áleit rétt. Allir álitu hina ungu greifadóttur fyrirmynd að öllu leyti.

þegar árin liðu, fór hún samt að finna til sívaxandi tómleika. Henni fanst trú sín ekki vera fullnægjandi, ekki veita sér fullkomna hugsvölun. þó hún rækti allar skyldur, sem kirkjan krafðist af henni hið ytra, var samt hjarta hennar sár-óánægt. þetta gjörðist um það leyti sem faðir hennar dó. Hún harmaði hann mjög, og fór út af því að hugsa með enn meiri alvöru um andlega hluti, en hún hafði nokkurn tíma gjört áður. Hún reyndi til þess að rækja skyldur sínar enn betur en áður, en alt kom fyrir ekkert. Hún reyndi til að

iðrast; en hún gat ekki verið að ljúga upp á sig syndum; hún gat ekki fundið, að hún væri neitt sérlega sek. Henni að eins *þótti jyrir* því, að geta ekki látið sér *þykja fyrir* útaf syndum sínum. En hún hafði engan frið. Hún fór að lesa guðs orð betur, og svo kom ljósið smátt og smátt. Hún fór að skilja betur en hún hafði nokkurn tíma áður haft hugmynd um, að farsæld vor, andleg og eilíf, er ekki innifallin í og ekki bygð á því sem vér í miklum ófullkomlegleik erum að gjöra, heldur því sem guð af eilífum kærleik og á fullkominn hátt hefir gjört fyrir oss. Hún fór líka að sjá, að það er ekki nóg að trúa játningum kirkjunnar, heldur verður trúin að vera lifandi og kærleiksríkt samband við guð. ,,Sá, sem ekki elskar guð, þekkir ekki guð, því guð er kærleikurinn''. Hún fann, að hún hafði aldrei elskað guð. Nú sá hún alt í nýju ljósi. Hún byrjaði nýja stefnu, nýtt líf. Hjartað var orðið snortið af hinum eilífa kærleika. Hún breytti alls ekki um trúarskoðun. Hún hélt áfram að vera lútersk. Í ræðunni, sem hún hélt í prestaskólanum í Chicago, lagði hún mikla áherzlu á hinn lúterska skilning á kvöldmáltíðinni. En það, sem áður var dauður bókstafur, varð nú að lifandi anda fyrir hana.

Hinu nýja ljósi fylgdi óslökkvandi þrá að sýna trú sína af verkunum. Hún gjörði sér ekki háar hugmyndir um köllun sína, og hugsaði ekki um stórt verksvið. Hana langaði til að koma á fót sunnudagsskóla fyrir fátæk börn og kannske draga upp myndir, til þess að gjöra sumt í biblíunni þeim skiljanlegra. Þetta gjörði hún; en svo leiddist hún frá einu til annars, þangað til hún var komin norður að Eystrasalti og farin að starfa meðal fiskimannanna þar. Hið andlega ástand þeirra var mjög bágt. Guðræknin var lítil eða engin, en drykkjuskapur og svall mjög alment. Hið efnalega ástand þeirra var einnig mjög vont. Hún byrjaði með því að gefa þeim að borða, en sá fljótt að hér þurfti meira en brauð fyrir líkamann; það þurfti guðs orð fyrir sálina; en hvernig átti hún að fara að? Hún var kona, og mátti því ekki tala opinberlega. Hún tók það þá til bragðs að byggja sér hús; enginn gat bannað að tala í sínu eigin húsi. Í þessu húsi útbýtti hún fæðu fyrir sál og líkama þessara fiskimanna. Þeir fundu það

fljótt, að hún meinti það sem hún sagði, og að hún flutti guðs orð með meiri krafti en þeir höfðu áður heyrt. Þeim fanst jafnvel að það vera eitthvert nýtt guðsorð, sem hún flutti, þegar hún las úr biblíunni, og fóru þeir því að biðja um biblíu greifafrúarinnar; en hún sagði þeim að sín biblía væri ekkert öðruvísi en aðrar biblíur. Fyrir þessar tilraunir hennar komst algjörð breyting á hugsunarhátt og líferni þessara manna. Þeir hættu drykkjuskapnum og svallinu, og lærðu að þekkja Jesúm Krist sem frelsara sinn og vin. Af þessu leiddi það, að þeir fóru að biðja hana að halda opinberar samkomur þar sem þeir áttu heima og konur þeirra gátu verið við. Hún var mjög treg til þess, en þó kom að því, að hún lét tilleiðast að gjöra einhverja tilraun, og fór í því skyni að finna prestinn í þorpinu; en þá fékk hún vitneskju um, að þar var enginn prestur. Sá, sem verið hafði prestur þar, hafði framið sjálfsmorð árið áður. Svo fór hún til skólakennarans, og þegar á samkomuna kom bað hún hann að lesa það sem hún hafði skrifað; en hann sagðist ekki mega það nema með leyfi prestsins, og úr því hann væri ekki til, mætti hann það alls ekki. Hún mátti því til að gjöra það sjálf. Eftir þetta talaði hún víða og starf hennar varð altaf víðtækara.

En ættingjum hennar þótti skömm að öllu þessu. Að hún skyldi vera að starfa meðal ruddalegra fiskimanna og eyða peningum sínum til að gefa þeim að borða, þótti þeim hin mesta smán fyrir sína höfðinglegu ætt. Þeim lukkaðist að ná henni og setja hana á vitskertra-spítala. Þar mátti hún sitja og fella sín beisku tár í fimm vikur. Þá var hafin rannsókn, sem leiddi til þess, að hún var frelsuð og henni veitt sín fullu réttindi aftur. Nú varð hún enn ákafari í starfi sínu en áður. Hún keypti skonnortu af Valdemar prinzi í Danmörku, og brúkaði hana til þess að ferðast um á meðal fiskimannanna, ekki einungis á Þýzkalandi, heldur einnig í Danmörku og víðar. Orðstír hennar barst út um alt Þýzkaland og fleiri lönd. Hún var oft beðin að tala fyrir verkamönnunum í stórborgunum.

Í eitt skifti var hún beðin að koma til Hamborgar; en henni var ekki um að koma þangað. Þar hafði hún alist upp

sem lítil stúlka, og þar hafði hún þekst sem hin auðuga greifadóttir. Hún ætlaði að sigla fram hjá Hamborg til Danmerkur; en hvernig sem hún reyndi gat hún það ekki, því alt af var sterkur mótbyr. Hún gekk því á land á sínum æskustöðvum, og var beðin að tala fyrir verkamönnunum í einhverjum stærsta samkomusal bæjarins. Margir urðu samt til að vara hana við því, að tala þar. Henni var sagt, að henni mundi aldrei takast það, því svo mikið mundi safnast þar saman af anarkistum, guðleysingjum og æðisgengnum skríl, að henni mundi aldrei auðnast að koma nokkru lagi á þann hóp. En hún treysti guði sínum og hræddist ekkert. Þegar hún kom í salinn, var hann orðinn troðfullur af fólki og var mikill órói hvervetna í salnum. Svo fór hún að tala. Í fyrstu var hlustað á hana. En þegar hún fór að segja þeim frá Jesú Kristi, fór þingheimur að hlæja. Þeir þóttust ekki vera upp á Krist komnir. Svo tók hún eftir því, að hópur manna var að brugga eitthvað með sér, og litlu síðar kom einn hinn svaðalegasti úr hópnum með barefli í hendinni og óð upp að henni, þar sem hún stóð á ræðupallinum, reiddi upp kylfuna og miðaði henni á ennið á henni; en henni brá ekki, heldur gekk hún beint framan að manninum, lagði höndina á öxl honum, kallaði hann vin sinn og ávarpaði hann með svo kröftugum orðum, að hann hætti við fyrirætlan sína. Svo hélt hún áfram ræðu sinni; en í hvert skifti, sem hún nefndi Krist, fór skríllinn að hlæja. Hún sá, að svo búið mátti ekki standa. Hún bað því áheyrendurna að lofa sér að segja eina setningu, og ef nokkur í salnum hlægi að henni, skyldi hún hætta að tala. Svo bað hún guð heitt og innilega að leggja sér orð í munn og koma orði sínu til varnar. Setningin var að eins mjög einfaldur boðskapur um Jesúm Krist og hans frelsandi náð, en svo mikill guðs andi og alvara fylgdi orðunum, að enginn einn einasti maður í salnum hló. Upp frá þeirri stundu hafði hún áheyrendurna í hendi sér. Hún hélt margar fleiri samkomur í Hamborg, og hafði stórmikil áhrif á verkamannalýðinn til góðs.

Fyrir eitthvað ári síðan kom hún til Ameríku. Skipið hennar kom líka, og fór hún á því upp St. Lawrence-fljótið

til Montreal, og svo eftir stórvötnunum til Chicago. Þar var hún síðastliðinn vetur, frá því í desember og þangað til í maí í vor. Síðan hefir hún ferðast til ýmsra annara borga.

Meðan hún var í Chicago, var mjög sótt eftir henni til að halda ræður í mörgum helztu kirkjum borgarinnar. Hún hélt þar ræður á dönsku, þýzku og ensku. Þar að auki er sagt, að hún haldi ræður á þremur öðrum tungumálum.

Alt hennar starf virðist bera órækan vott um heita elsku til guðs og manna.

,,Hver sem vill fylgja mér, afneiti sjálfum sér, taki sinn kross á sig, og fylgi mér eftir" (Matt. 16, 24).

Hvar verður fundið fegurra dæmi kristilegrar sjálfsafneitunar en dæmi þessarar góðu konu?

R. M.

## Fegurð ófullkomlegleikans.

Þýtt úr ,,*Sunday School Times*."

---

Vér finnum flestir af oss sárt til yfirsjóna vorra og þróttleysis í því sem gott er. Ófullkomlegleikar vorir gjöra oss oft kjarklausa og eins og brjóta niður hugrekki vort, svo við sjálft liggur að við gefumst alveg upp. En þetta er ekki sönn lífsskoðun. Þegar vér lítum á þetta frá réttri hlið, sjáum vér að reynslur þær, sem svo mjög hafa dregið úr kjark vorum, hafa í raun og veru geymt í sér vonar- og upphvatningar-frækorn.

Það er fegurð í ófullkomlegleikanum. Vér höfum ef til vill ekki veitt því eftirtekt, en samt er það svo, að hið ófullkomna í fögru líferni er oft einmitt hið fullkomna í ófullkomnu ástandi. Það er framfarastig, þroska-breyting. Það er ófullgjört málverk, og því fagurt fyrir sinn tíma og á sínum stað.

Blómstrið er í sjálfu sér fagurt, þó það sýnist ófullkomið í samanburði við hið alþroskaða og gómsæta aldini, sem síðar myndast í þess stað. Ungviðurinn er fagurlega vaxinn og vekur aðdáun vora, þó hann sé lítið meira en vísir til hins

mikla trés, sem hann síðar verður. Barnið á langt í land til þess að verða maður. Hversu veikburða er ekki æskan? Gáfur barnsins eru óþroskaðar, hæfilegleikar þess óæfðir. Það er enn án speki, án þekkingar, án krafta til að koma nokkru góðu eða miklu til leiðar. Það er mjög ófullkominn maður. Og hver myndi þó álasa því fyrir þetta þroskaleysi? Það er fegurð í ófullkomlegleika þess.

Vér erum öll börn á ýmsu skeiði. Líf vort er enn ófullgjört og óþroskað, en ef vér lifum eins og ber að gjöra, þá er sönn siðferðisleg fegurð í ófullkomlegleika vorum. Þetta er eðlileg og sjálfsögð framfara-rás fullkomlegleikans. Skólaverk barnsins getur verið mjög gallað, en samt fagurt og lofað góðu, ef það vitnar um stöðuga viðleitni í framfara-áttina. Kennarinn hrósar barninu þegar hann skoðar skrifbókina þess, og segir að það hafi gjört verk sitt ágætlega. En svo, ef þú lítur á bókina, þá sér þú ótal margt til að setja út á, því drættirnir eru stirðir og óreglulegir og stafirnir ljótir í laginu, og þú skilur ekki hvernig kennarinn hefir getað lokið lofsorði á annað eins verk. Hann fann sanna fegurð í því, þegar hann bar saman fyrstu og seinustu síðuna, því þá sá hann framfarirnar.

Og þannig er því varið með allan lærdóm. Barnið gekk þrjú spor einsamalt, og móðirin er frá sér numin af fögnuði yfir þrekvirki þess, því þetta voru fyrstu sporin. Lítil stúlka situr við hljóðfærið og spilar einföldustu æfingarnar sínar án þess að fipast mikið, og alt fólkið hennar undrast og dáist að hvað vel henni gangi. Samt mátti mjög mikið finna að þessu sem sönglist. Ef eldri systirin, sem búin var að æfa sig í 10 ár, spilaði ekki betur en barnið, þá hefði það að eins vakið vonbrigði áheyrendanna, en ekkert lofsyrði. Ófullkominn hljóðfærasláttur var fagur, því þó hann væri á lágu lærdómsstigi, bar hann þó vott um ástundun og dyggilega æfingu barnsins.

Móðir nokkur kom að drengnum sínum, þar sem hann var að reyna að teikna. Tilraunir hans voru klunnalegar, en hin skarpa sjón og heita löngun móðurinnar fann fljótt fegurð í myndum hans. Það fólust í þeim fagrir spádómar um fram-

tíð drengsins, og móðirin beygði sig ofan að honum, hrósaði honum og kysti hann. Í samanburði við snildarverk listamannanna voru auðvitað þessi óvönduðu mynda-uppköst laus við allan yndisleik, en þau voru fögur, á sínum tíma, sem fyrsta tilraun drengsins.

Þessi sami sannleikur á við allar einlægar tilraunir vorar í að læra að lifa rétt. Þó við fetum mjög ófullkomlega í fótspor Krists, þó vér hrösum við hvert fótmál og getum að mjög litlu leyti náð þeim skilyrðum, sem útheimtast til að vera sannir lærisveinar, þá samt, ef vér gjörum vort ýtrasta og keppum stöðugt eftir því sem er háleitt og gott, þá eru tilraunir vorar fagrar og vel þóknanlegar fyrir augliti drottins.

Vanalega er það álitið óheiðarlegt að bíða ósigur. Og stundum er það svo; það er óheiðarlegt þegar það stafar af áhugaleysi eða þrekleysi. Vér eigum að ala sjálfa oss upp til þess að verða sigurvegarar. En ef vér neytum allrar orku vorrar, og verðum þó samt sem áður undir í baráttunni, þá er engin óvirðing í því. Það er tvöfalt stríð er sá maður stendur uppi í, sem einnig hefir að berjast við óblíð lífskjör eða erfiðar kringumstæður, og vel getur svo farið, að hann sigri í öðru en falli í hinu. Of oft ber það við, að maðurinn sigrar í hinni jarðnesku baráttu með því að leggja í sölurnar sannleika og réttlæti, og er það vissulega sigur sem er óheiðarlegur í augsýn drottins. Falli maðurinn þar á móti í baráttunni við örðugar kringumstæður, en haldi samt sjálfum sér hreinum og flekklausum, þá er hann sann-nefndur sigurvegari, og það er gleði yfir honum á himnum.

Ósigurinn, sem vér svo oft bíðum í lífinu, er nokkurs konar skóli, sem vér eigum að alast upp í. Í hvaða verki sem er, þá lærir maður einmitt á yfirsjónum sínum. „Business"-maðurinn, sem alt hefir hepnast svo vel fyrir, byrjaði ekki með eintómri hepni. Hann lærði af reynslunni, og reynslan var honum oft dýr. Hin sanna lífsfræði er ekki fólgin í því, að láta sér aldrei verða neitt á, heldur í því að endurtaka ekki ávirðinguna. Vér þurfum því ekki að fyrirverða oss fyrir þann ósigur, sem vér kunnum að bíða, ef vér af alefli höfum ástundað að gjöra vel, heldur megum vér

miklu fremur gleðjast yfir honnm, því vér lærum af honum og lyftumst hærra fyrir hann. Sá ósigur sem gjörir oss vitrari og betri, er að eins blessun fyrir oss. Hann gjörir meira að verkum til að auðmýkja gamla manninn í oss, til að hreinsa hvatir vorar og tilhneigingar, heldur en það sem vér nefnum hepni vora eða sigur.

það væri auðvelt að semja langa nafnaskrá þeirra manna, sem hafa orðið undir í baráttunni, en sem einmitt upp úr því hafa byrjað nýtt líf, sem hefir síðar haft blessunarrík áhrff á heiminn umhverfis. Í þessu sambandi má og nefna nafn Jesú Krists. Lífssaga hans, frá jarðnesku sjónarmiði, er ósigurssaga. En eftirlét krossinn nokkurn blett á nafni Krists? Er það ekki stærsta sigurvinning lífs hans, að hann dó eins og hann gjörði? Var hægt að segja, að lífsverk hans hefði mishepnast? Kristin trú er svarið upp á það. Kristur er leiðtogi hins mikla fjölda, sem, eins og hann, hafa beðið ósigur, en um leið auðgað heiminn með sjálfsafneitunar-fórnum sínum. Enginn nefnir slíkan ósigur sem blett á nafni þeirra; hann er miklu fremur þeirra dýrðar-djásn. Sá ósigur er guðdómlega fagur.

þennan sama sannleika má einnig heimfæra upp á annað. Á heimsins máli er mótlæti og sorgir nefnt ólán. Sá er ekki kallaður lánsamur eða hamingjusamur, sem mætir miklu andstreymi og þungum reynslum. En kristindómurinn bregður hér upp nýju ljósi—breiðir himneskt ljós yfir jarðlífið, og í því ljósi verður mæðan og sorgin fögur. ,,Sælir eru sorgbitnir", segir Jesús, þegar hann er að telja upp hverjir séu sannarlega sælir. Í fagnaðarerindinu, sem hann boðar, er það ekki talið neitt sérstakt náðar-einkenni að sleppa hjá böli og hrygð. þvert á móti er það skoðað sem merki upp á kærleik guðs, þegar hann kallar oss undir aga sinn. Í mæðunni—þessum myrkvasta bletti mannlífsins, sem kallaður er — felst þá líka hrein fegurð.

Einnig þetta bendir á fegurð í ófullkomlegleikanum. Vér getum reitt oss á, að guðs auga sér meira gott í því sem vér hryggjumst af, því sem mannlegu auga sýnist spilt og skemt,

en í því sem vér í heimsku vorri stærum oss af. Drottinn lítur ekki á eins og mennirnir líta á.

## Ágrip af sögu „General Councils“.

(Framh.).

Það er örðugt að segja, hvenær lúterska kirkjan í Ameríku byrjaði að styrkja með fjárframlögum trúboð meðal heiðingja. Það var um byrjun nítjándu aldarinnar, að prótestantisku kirkjudeildirnar fóru fyrir alvöru að vakna til meðvitundar um nauðsyn heiðingja-trúboðsins, og það var að minsta kosti snemma á öldinni, að lúterskir menn í Ameríku fóru að taka þátt í þeirri starfsemi með fjárstyrk. Í fyrstu sendu þeir gjafir sínar annað hvort til trúboðsfélaga á Þýzkalandi, eða til félags sem samanstóð af meðlimum úr ýmsum kirkjudeildum í Bandaríkjunum.

Árið 1836 stofnuðu nokkrir prestar í Pennsylvania-sýnódunni félag til þess að starfa að trúboði. Var hugmyndin fyrst sú, að styrkja trúboð meðal fólks í hinum vestlægu nýlendum, sem þá voru að myndast í Bandaríkjunum, og einnig að styrkja að einhverju leyti þýzkan heiðingja-trúboða, sem þá var að byrja trúboð á Indlandi. En svo kom að því, að félagið vildi byrja á sínu eigin trúboði. Það, eða öllu heldur Pennsylvania-sýnódan sjálf, sendi út sinn fyrsta trúboða árið 1842. Hann hét C. F. Heyer, og var um leið hinn fyrsti trúboði meðal heiðingja, sem lúterska kirkjan í Ameríku eignaðist. Hann sigldi til Indlands, og hóf starf sitt í bænum Guntur, í suðausturhluta Indlands, hér um bil 225 mílur í norður frá Madras, meðal þjóðflokks þess er kallast Telugúar. Hann var, er hann kom til Indlands, eins og vér Íslendingar þegar vér komum til Ameríku, mállaus og öllu ókunnugur. Enginn kristniboði var þar nokkursstaðar nálægt, sem gæti með nokkru móti leiðbeint honum. Enski tollheimtumaðurinn þar í bænum skaut skjólshúsi yfir hann og liðsinti honum fyrst framan af. Nokkru seinna fjölguðu starfsmenn á þessu svæði, og hafði starf Heyers yfir höfuð góðan árangur. Eftir margra ára dygga þjónustu hvarf hann aftur vegna heilsu-

lasleika og elli. Nokkur ár vann hann svo að missíón hér í Ameríku.

þegar deilurnar risu upp, sem ollu úrgöngu Pennsylvania-félagsins úr General-sýnódunni, var Heyer í Norðurálfunni. Af þeirri úrgöngu leiddi það, að General-sýnódan, sem áður hafði tekið að sér að öllu leyti trúboð það sem Heyer hóf, var að láta nokkurn hluta af trúboðssvæði sínu sér úr greipum ganga, sökum fjárskorts og annara örðugra kringumstæða. General-sýnódan var nefnilega að semja við trúboðs-félag úr ríkiskirkjunni ensku, að taka að sér hinn nyrðri hluta svæðisins, þar sem Rahjahmundry, sem stendur við Godaveryána, er höfuðstaðurinn. þegar hinn aldurhnigni Heyer heyrði getið um þetta, var hann staddur á þýzkalandi, og brá þá strax við. Hann vissi, að þing Pennsylvania-félagsins átti að koma saman að skömmum tíma liðnum. Hann fór því til Ameríku, og fyrir áeggjanir hans slóst í för með honum danskur guðfræðis-stúdent. H. C. Schmidt að nafni, sem hafði í hyggju að gjörast heiðingja-trúboði. Undir eins og Heyer kom, gekk hann fyrir þingið og fékk það áunnið, að þingið afréð að kirkjufélagið skyldi taka að sér þetta svæði, ef General-sýnódan og enska félagið vildu gefa það eftir. það tókst, og Heyer bauðst til að fara aftur og undirbúa fyrir eftirmenn sína. En um það leyti, sem hann fór, varð það að samkomulagi, að General Council tæki að sér þetta heiðingja-trúboð að öllu leyti, og hefir það haldist síðan.

Árið 1869, hérum bil tveimur árum eftir að General Council var stofnað, fór Heyer, hinn fyrsti heiðingja-trúboði General Councils, aftur á stað til Indlands, þá 77 ára gamall. Hann settist að í Rajahmundry, og var því sem næst alt í ólagi er hann kom þar; en hann vann af miklu kappi að því, að koma skipulagi á alt starfið. Fyrsta árið, sem hann starfaði þar, voru 107 heiðingjar skírðir.

Áður en hann fór fyrir fult og alt burt af Indlandi, var Schmidt, sem áður er nefndur, genginn í þjónustu General Councils sem trúboði og kominn á staðinn. Hann hefir starfað þar því sem næst alt af síðan, og hefir um langan tíma

verið forstöðumaður General Councils trúboðsins í Rajahmundry og nærliggjandi héröðum.

Alt svæðið, sem General Council hefir undir verndarvæng sínum, er um 7,000 ferh. mílur, og er sagt að fólkstala sé um fimm miljónir.

það eru nú rétt 30 ár síðan að þetta General Council-trúboð hófst. Á þeim tíma hafa margir trúboðar starfað, þó altaf hafi verkamennirnir verið of fáir fyrir uppskeruna. Tiltölulega fáir hafa þolað starfið nema fá ár. Sumir hafa komið þar því sem næst að eins til að deyja. Hvað eftir annað hefir forstöðumaðurinn mátt sjá á bak sínum beztu liðsmönnum. Samt er búið að byggja kirkjur og skóla og vinna mikið af svo fáum. Fyrir tveimur árum voru þar 7 trúboðar (karlmenn), 3 ameríkanskir kvennmenn, til að kenna og starfa meðal kvennfólksins, 113 skólar, með 2,719 nemendum og um 5,000 sálir, sem höfðu snúist til kristni.

þetta er að eins byrjun. það þarf miklu fleiri starfsmenn. þarna er mikið og fagurt verk til að vinna, ef kirkjan vill sjá köllun sína. (Framh.).

## Bandalags-pistlar.

I.

Bandalagið er til orðið fyrir starfsþrá unga fólksins. Í kaþólsku kirkjunni eru munka- og nunnu-félög, sem gefa þeim tækifæri til að starfa, er vilja helga líf sitt þjónustu kirkjunnar. Í reformeruðu kirkjunni eru mörg félög meðal leikmanna, sem starfa eitt eður annað fyrir kirkju sína. Unga fólkið í lútersku kirkjunni á þessu meginlandi langaði einnig til að vinna eitthvað fyrir sína kirkju. þess vegna varð bandalagið til.

Öllum ætti að vera ljóst, að starfsþráin er óslítanlega samtvinnuð lífinu. Svo lengi sem maður er lifandi, vill hann hafa eitthvað að starfa. Barnið í vöggunni fer fljótt að sýna hæfilegleika sína til að hreyfa sig, og stundum sýnir það ótvírætt mjög sterka tilhneigingu til að framkvæma eitthvað, ekki

ef til vill það sem aðrir vilja, en samt að gjöra eitthvað. Þegar barnið vex upp, eykst stöðugt starfsþráin í réttu hlutfalli við hina auknu lífskrafta. *Hreyfing er líf; hreyfingarleysi er dauði.* Jafnvel þegar líkaminn er þjáður og getur ekki hreyft sig, er hugurinn á flugi út um heiminn og geiminn. Unga fólkið sérstaklega hefir þessa starfsþrá í yfirfljótanlegum mæli. Fjörið er svo mikið, lífsaflið svo sterkt. Það er eins og á iði. Fjörið sýður og vill sjóða upp úr. Það er eins og sumt af því geti aldrei haft frið.

Ef nú hægt væri að höndla þetta óstýriláta afl, ef maður gæti höndlað það eins og rafmagnið, sett því skorður og látið það vinna eitthvað þarft, eða látið það eðlilega renna í þá átt, sem það gæti orðið að gagni, væri spursmálið um það, hvað maður getur gjört fyrir unga fólkið, algjörlega leyst.

En það er einmitt á þessu skeiði mannsæfinnar, sem það er líklega lang-örðugast að ákveða hæfilegt verk. Meðan barnið er lítið, nnir það sér við barm móður sinnar; þegar það verður dálítið stærra, unir það sér við leggina sína, skeljarnar, brúðurnar, eða saklausa leiki heima við; en þegar það er orðið enn stærra, þegar það er að verða ung kona eða ungur maður, kastar það öllum gömlu leikföngunum, brýtur af sér gömlu böndin, sem héldu því við saklausa leiki á heimilinu, og brýzt út í heiminn. Áfram til að berjast við lífið! Í fyrstu veit ungmennið ekkert hvað það er að fara. Það er að eins einhver ósjálfráð þrá, sem hrindir því áfram, og það gáir vanalega ekki að sér fyr en það rekur sig á.

Það er auðvitað mikill hluti unga fólksins, sem ekki er neitt örðugt að ákveða verksvið; en það er til annar hluti þess, sá einmitt, sem mest þyrfti þess við að honum væri bent í rétta átt, sem örðugast er að gefa nokkurt verkefni.

Hvers vegna er það örðugt? Hvers vegna sækir unga fólkið margt ekki fundi vora? Ekki af því það sé iðjulaust og vilji vera iðjulaust, heldur einmitt af því það er annað að gjöra. En hvers vegna er það annað að gjöra? Annað hvort af því, að það má til að vinna eitthvað annað, og út á það hefir maður ekkert að setja, eða það hefir ekki smekk fyrir

fundastörfum vorum, en hefir smekk fyrir einhverju öðru og *vill* þess vegna ekki koma á fundi. Það er þetta sem gjörir það svo örðugt, að gefa þessum hluta unga fólksins verkefni.

Hversu örðugt sem þetta kann að vera, hljóta tilraunir vorar í bandalögunum að ganga í þessa átt, að gefa unga fólkinu það að gjöra, sem það getur gjört og getur gjört sér til uppbyggingar. Það þarf að velja því verkefni, sem á við smekk þess og hæfilegleika, án þess þó að fara út yfir takmörk þess, sem er gott og fagurt. Það þarf mikla alúð og mikil hyggindi til að gjöra þetta vel.

Það þarf að draga fram hina betri krafta unga fólksins, og það er að eins hægt með því, að gefa því tækifæri til að brúka þá. „Vér lærum að gjöra með því að gjöra". Eins og járnsmiðurinn æfir vöðva sína með því að brúka þá til að lyfta hamrinum og slá á járnið, eins æfast kraftar hinna ungu til góðs með því, að gefa þeim öll möguleg tækifæri til að æfa þá. Vér þurfum að fá unga fólkið til að taka eins mikinn þátt í bandalags-starfseminni eins og mögulegt er. Auðvitað á unga fólkið að kunna að hlusta, engu síður en tala.

Hvað getur svo unga fólkið í bandalaginu gjört? Vér skulum svara þessu með því, að benda á það, sem unga fólkið hefir gjört og gjörir í ýmsum bandalögum. Sumsstaðar gjörir það mikið til að prýða kirkjur sínar. Eitt bandalag gaf kirkju sinni altari síðastliðið ár, sem kostaði um $130. Er þetta mjög fallegt. Á fundum les það, ræðir, syngur og spilar á hljóðfæri. Víða gjörir það þetta ljómandi vel. Víða ber það fram kvæði sín og önnur upplesturs-stykki með mestu snild og er slíkt fögur list, en unga fólkið vort þyrfti að æfa sig miklu meira en það hefir gjört. Það gengur í kring og safnar peningum í missíónarsjóð og til þarfa safnaða sinna. Sumsstaðar gefur það fé til að hjálpa þeim sem bágt eiga. Það kemur til veikra, og heimsækir jafnvel fangelsi. Það starfar í nefndum og innir ýms fundarstörf af hendi. Það lítur eftir því, hvernig meðlimirnir sækja fundi, og sumstaðar vinnur það að því að fá fólk til að sækja kirkju.

Bandalagið á að hjálpa fólki voru á einhverju hinu örðugasta skeiði lífsins; það á að hjálpa því fram hjá skeri, sem

oft reynist hættulegt. það á að hjálpa unga fólkinu í því millibils-ástandi, sem það er í eftir ferminguna og áður en það er orðið fulltíða og fullþroska meðlimir safnaðarins. Áður en börnin eru fermd, er þeim haldið að einhverju leyti í skefjum af foreldrum, sunnudagsskóla-kennurum og prestinum. En eftir ferminguna heimta þau vanalega meira sjálfræði, og vilja sigla sinn eigin sjó. þá þarf bandalagið að koma þeim til hjálpar og verða þeim nokkurskonar skóli fyrir þýðingarmeira framtíðar-starf í söfnuðinum. það verður aðallega gjört með því að gefa þeim verkefni.

Enginn má misskilja þetta, sem sagt hefir verið, svo, að ungmennin séu ekki meðlimir safnaðanna undir eins og þau eru fermd. það eru þau; en þau eru ekki strax orðin þroskaðir starfsmenn.

Unga fólk, lærið að starfa, í Jesú nafni.

---

Mánudaginn 25. sept. lagði séra Jón J. Clemens á stað í ferð til Þingvalla-nýlendu, Brandon og Laufáss-bygðar, og bjóst hann við að verða um þrjár vikur að heiman.

Selkirk-söfnuður hefir nú sent séra N. Stgr. Þorlákssyni köllunarbréf og æskt eftir þjónustu hans að fullu. Er það fallegt af Selkirksöfnuði, og ber vott um sannan kristilegan áhuga hjá jafn fámennum söfnuði.

Hið 27. þing General Councils kom saman í Chicago fimtudaginn 28. sept. síðastl. Séra N. S. Þorláksson mætti þar sem fulltrúi (fraternal delegate) frá kirkjufélagi voru. Séra Björn B. Jónsson var þar einnig viðstaddur.

---



„SAMEININGIN“ kemur út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vesturheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgafunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfur Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.